WIKIPEDIA

# Fornkirkjuslavneska

| Fornkirkjuslavneska словѣньскъ ѩзыкъ slověnĭskŭ językŭ | |
|---|---|
| **Málsvæði** | á heimaslóðum Slava |
| **Heimshluti** | Austur-Evrópa |
| **Ætt** | Indóevrópskt<br>Baltóslavneskt<br>Slavneskt<br>Suðurslavneskt<br>**Fornkirkjuslavneska** |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | cu |
| **ISO 639-2** | chu |
| **ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode. | |

**Fornkirkjuslavneska** (*словѣньскъ ѩзыкъ* eða *slověnĭskŭ językŭ*) er útdautt slavneskt tungumál. Á 9. öld var fyrsta slavneska málið skrifað niður af trúboðunum heilögu Kýrillosi og Meþódíusi sem voru báðir meðlimir í grísku rétttrúnaðarkirkjunni. Í upphafi var málið ritað með glagólitíska stafrófinu sem þróaðist með tímanum yfir í kýrillíska stafrófið.

Þar sem málið var mikið notað við biblíuþýðingar og trúboðsstarf hafði það mikil áhrif á tungumál og menningu Austur-Evrópu líkt og latínan í Vestur-Evrópu. Dæmi um þetta er viðskeytið *-grad* „staður“ sem er víða að finna í austurevrópskum örnefnum, t.d. *Leningrad* og *Stalingrad*. Nútímaútgáfa tungumálsins, kirkjuslavneska, er enn notuð sem kirkjumál í Búlgaríu, Rússlandi og Serbíu. Hún var notuð sem bókmenntamál fram á 18. öld.

Eins og önnur forn indóevrópsk tungumál er orðhlutafræði fornkirkjuslavnesku mjög flókin. Beygingarorð skiptast í tvo flokka: nafnyrði og sagnir. Nafnyrði skiptast nánar í nafnorð, lýsingarorð og fornöfn. Töluorð beygjast annað hvort sem nafnorð eða fornöfn, en tölurnar 1–4 kynbeygjast líka. Nafnyrði skiptast í þrjú kyn (karlkyn, kvenkyn og hvorugkyn), þrjár tölur (eintölu, tvítölu og fleirtölu) og sjö föll: nefnifall, ávarpsfall, þolfall, tólfall, þágufall, eignarfall og staðarfall.

*Þessi tungumálagrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Fornkirkjuslavneska&veaction=edit).*

s · r · b (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Sni%C3%B0:Slavnesk_tungum%C3%A1l&action=edit)

| Slavnesk tungumál | |
|---|---|
| **Austurslavnesk tungumál** | Fornausturslavneska • Fornnovgorodíska • Rúþeníska • Hvítrússneska • Rússneska • Úkraínska • Rúsínska |
| **Vesturslavnesk tungumál** | Tékkneska • Slóvakíska • Miðpólska • Pólska • Sílesíska • Pómeranískt • Kassúbíska • Slóvínsíska • Pólabíska • Sorbneskt • Efri sorbneska • Neðri sorbneska • Kaníska |
| **Suðurslavnesk tungumál** | **Austurflokkur**: Fornkirkjuslavneska • Búlgarska • Makedónska • Kirkjuslavneska<br>**Vesturflokkur**: Serbneska • Króatíska • Slóvenska |

Sótt frá „https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Fornkirkjuslavneska&oldid=1535059“

**Þessari síðu var síðast breytt 9. júní 2016, klukkan 16:37.**

Textinn er gefinn út samkvæmt Creative Commons Tilvísun-DeilaEins leyfi. Sjá nánar í notkunarskilmálum.